Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

29. og 30. tölublað Þriðjudagur 15. ágúst 7. árg. verð kr. 100.-



## í blaðinu



# Sagan endurtekur sig

"Glaðningur" bíður starfsmanna Stálvíkur að loknu sumarleyfi þann 14. ágúst n.k. Búið er að segja upp um 30. manns og að öllu óbreyttu fá þeir u.þ.b. hundrað menn sem eftir eru uppsagnarbréf eftir sumarleyfið. Ástæðan er sú að það skortir fjármagn til að hefja smíði nýs skuttogara. Fjármálafáveldið (bankarnir) neita að lána fé til framkvæmdanna. Búið er að semja um smíði tveggja togara, en það vantar peninga.

Töluvert stór hluti af þeim hundrað manns sem þarna vinna eru iðnnemar. Og samkvæmt samningum milli iðnnema og meistara, þá er ólöglegt að segja upp iðnnema nema hann hafi brotið eitthvað af sér (því er ekki til að dreifa í þessu tilviki.) Ef fyrirtækið fer á hausinn og segir upp öllu starfsfólkinu, þá er það skylda atvinnurekendans að útvega nemunum námssamning annarsstaðar. Ef það gerir það ekki, þá er hægt að höfða skaðabótamál á hendur fyrirtækinu.

Mörgum kann að þykja það undarlegt að ekki skortir fé til Kröflu og Grundartangaævintýra. Ekki skortir fé til að byggja orkuver til að selja erlendum auðhringum orku, fyrir lítið sem ekki neitt, á meðan almenningur fær yfir sig gegndarlausar verðhækkanir á nokkurra mánaðarfresti. Kjörorðið er: að hleypa nægilega miklu erlendu fjármagni inn til að gera erlendum auðhringjum fært að arðræna íslenskan verkalýð. Því orkan er ódýr, hvort sem hún er mæld í megavöttum eða mannlegri vinnu. Við skulum ekki vera þeir græningjar að álíta að það ástand sem skapast hefur í Stálvík, sé eitthvað einangrað fyrirbrigði, þetta er að gerast víða í íslenskum iðnaði hvort sem hann heitir, skipasmíðar, fiskiðnaður eða fata iðnaður. Lokun frystihúsanna á Suðurnesjum og í Vestmannaeyjum eru glöggt dæmi um þetta. Söknin í hámarksgróða ræður fyrst og fremst gerðum þessara manna. Þeir eru ekki að hugsa um hag og velferð þjóðarinnar, einungis hvernig þeir geti með sem bestu móti pínt út úr verkafólki sem mest vinnuafköst, fyrir sem minnstan pening.

Fyrir nokkru birtust þær tölur að útflutningsverðmæti sjávarafurða frá Vestmannaeyjum næmu hvorki meira né minna en um 7 milljörðum króna. Er þetta geysilega hátt hlutfall af útflutningsverðmætum sjávarafurða Íslendinga Þessi verðmæti eru sköpuð af nokkur hundruð manns.

Ekki má heldur blanda þessu máli saman við barlóminn í eigendum þessara fyrirtækja, eða fulltrúa þeirra líkt og Davíðs Schevings Thorsteinssonar. Þeir lifa í vellystingum pragtuglega, þrátt fyrir þetta ástand. Í versta falli er þeim borgað fyrir að hætta rekstrinum.

Dagblöðin: þessi frjálsu og óháðu eru sífellt að velta sér upp úr því hvað þeir eigi erfitt uppdráttar. En þau skrifa ekki um það hvað bíður fjölskyldna þeirra manna og kvenna, sem hafa stritað IO - I6 tíma á dag, til að bjarga þessum verðmætum frá glötun Þegar sett var á yfirvinnubann í Vestmannaeyjum og á Siglufirði, þá réðust þau harkalega á verkafólk fyrir það, að það væri þess valdandi að hundruði r miljóna færu í súginn, en þegar þessu fóki er sagt upp vinnu, að því loknu þá halda þau kjafti. Þetta er bara náttúrulögmál í þeirra augum, að stundum hafi verkafólk nóg að éta, en stundum ekki. En þetta er ekkert náttúrulögmál, heldur er þetta lögmál auðvaldsheimsins lögmál "hins frjálsa markaðar og hagkerfis." Lögmál sem byggist á því að með verkafólk er farið eins og skynlausar skepnur, sem eigi sér ekki annað markmið, en að vinna éta, sofa og geta af sér nýja einstaklinga, sem síðan er hægt að arðræna.

Atvinnuleysi vofir nú yfir þúsundum verkafólks. Á einstaka vinnustöðum hefur fólk gripið til mótaðgerða eins og í Ísbirninum. Enn þá brá svo við, sem ekki þykir nýlunda, að forysta verkalýðsfélaganna snerist öndverð á móti. Töldu Gvendur J. og co að ekki væri rétt að beita einn kapítalista hörðu, heldur notast við heildaraðgerðir forystunnar.

Ef að líkindum lætur verður það eitthvað álíka öflugt og "útflutningsbannið". Rétt er það að vissu marki að ekki nægir andóf á einum vinnustað; það þyrfti því að vera víðtækara. En öflugt andóf hefur samt mikil áhrif.

Stéttabaráttan hvetur starfsfólk Ísbjarnarins til að efla samstöðu sína og verkafólk annars staðar í fiskiðnaði til samsvarandi aðgerða.

Mikil kreppa ríkir í málmiðnaði um allan heim. Í Svíþjóð er skipasmíðaiðnaðurinn að hrynja saman og áhrifa þessarar kreppu gætir einnig hérlendis. Atvinnurekendur segja verkafólki upp þegar gróðahlutfallið minnkar og svifta það þannig lífsafkomu sinni, en svari verkafólkið með verkfalli er það sakað um að setja þjóðarbúið á hausinn.



# Heri Sovétríkjanna burt úr Tékkóslóvakíu

ÚTIFUNDUR FYRIR FRAMAN SOVÉSKA SENDIRÁÐIÐ MÁNUDAGINN 21. ÁGÚST KL. 17:30.

Fréttatilkynning frá Miðnefnd Samtaka herstöðvaandstæðinga. (SHA)

Fyrir tíu árum, þann 21. ágúst 1968, réðust hersveitir Varsjárbandalagsins undir forystu Sovétríkjanna, inn í Tékkóslóvakíu og hernámu landið. Enn í dag er landið hernumið og öll andstaða við innrásarliði Sovétríkjanna og leppa þeirra er miskunnarlaust brotin á bak aftur.

Árið 1949 ákvað fámenn klíka íslenskra þingmanna að Ísland skyldi verða aðili að hernaðarbandalaginu NATO. Tveim árum síðar var svo gerður herverndarsamningur við Bandaríki Norður - Ameríku á grundvelli NATO-aðildar, sem leiddi til mikillar fjölgunar í liðssveitum Bandaríkjanna á Íslandi.

Í báðum tilfellum hefur aðild að hernaðarbandalagi leitt til langvarandi hersetu stórvelda, sem miða að því að treysta yfirráð sín í viðkomandi löndum. Bæði tékknesk og íslensk alþýða hafa því hliðstæðra hagsmuna að gæta: Að losa sig úr greipum erlends hervalds.

Íslenskir herstöðvaandstæðingar og samtök þeirra vilja að Ísland standi utan allra hernaðarbandalaga og styðja jafnframt rétt allra annarra ríkja til sjálfræðis. Samtök herstöðvaandstæðinga berjast því gegn heimsvaldastefnu og hvers kyns yfirgangi og íhlutun stórvelda af málefnum annarra ríkja.

Af þessum sökum hafa Samtök herstöðvaandstæðinga ákveðið að gangast fyrir útifundi fyrir framan sovéska sendiráðið mánudaginn 21. ágúst n.k. til að mótmæla innrás Varsjárbandalagsins í Tékkóslóvakíu og veru sovéska hersins þar. Fundurinn hefst kl. 17. 30. Kjörorð fundarins verða:

1. Styðjum frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka.
2. Heri Sovétríkjanna burt úr Tékkóslóvakíu.
3. Gegn vígbúnaði stórvelda.
4. Ísland úr NATO - herinn burt.

Samtök herstöðvaandstæðinga skora á alla stuðningsmenn þjóðfrelsis og lýðréttinda til að sýna samstöðu og votta stuðning sinn við frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka með því að mæta á útifundinn á mánudaginn kemur.

LEIÐARI

# Sovétríkin burt úr Tékkóslóvakíu

Nú eru tíu ár liðin frá því er herir Varsjárbandalagsins, undir forystu Sovétríkjanna, réðust inní Tékkóslóvakíu. Innrásin var gerð til að brjóta á bak aftur sjálfstæðis viðleitni Tékkóslóvakíu gagnvart Sovétríkjunum. Drottnun Rússa yfir Austur Evrópuríkjum er skerðing á efnahagslegu- hernaðarlegu- og menningarlegu sjálfstæði þessara ríkja. Tilraun Tékkóslóvakíu til að brjótast undan þessari kúgun var brotin á bak aftur, með hernaðarlegu ofbeldi. Þessi innrás sannar að rússneska heimsvaldastefnan notar sömu aðferðir og önnur heimsvaldaríki til að viðhalda áhrifum sínum og drottnun yfir öðrum ríkjum.

Ef ekki dugar að beita pólítískum þvingunum er beitt hernaðarlegu ofbeldi til að viðhalda drottnunar stöðu sinni.

Tékknesk alþýða reis upp þúsundum saman og mótmælti innrásinni. Fólk úr öllum þjóðfélagshópum krafðist þess að sjálfstæði þjóðarinnar væri virt og Varsjárbandalagið drægi heri sína til baka. En allt kom fyrir ekki rússar voru ekki komnir til Tékkóslóvakíu til að hlusta á óskir alþýðunnar heldur til að þjóna sínum eigin hagsmunum. Þeir ætluðu ekki að missa spón úr aski sínum og fyrir það voru þeir tilbúnir til að troða rétt þjóðar til sjálfræðis niður í svaðið. Þannig er komið fyrir Sovétríkjunum, sem eitt sinn voru útvörður sjálfstæðis og fullveldis ríkja á heimsmælikvarða. Svik Sovétríkjanna við alþjóðahyggju verkalýðsins kalla á mótmæli allra lýðræðis afla. Alþýðuhreyfingar víða um heim mótmæla 21. ágúst innrás Varsjárbandalagsins inn í Tékkóslóvakín fyrir 10 árum síðan. Hér á landi stóðu samtök herstöðvaandstæðinga fyrir mótmælafundi í fyrra. Í ár verður hafður sami háttur á og mótmælafundur verður haldin fyrir utan Sovéska sendiráðið. SHA leggja höfuð áherslu á andstöðu sína við drottnunarstefnu Sovétríkjanna. Mótmæli öflugra fjöldasamtaka á borð við SHA eru mikilvægur stuðningur við frelsisbaráttu tékkneskrar alþýðu. En barátta tékkneskra þjóðfrelsisafla hefur staðið allt frá 1968 og engar líkur á að þeirri baráttu ljúki nú á næstu árum. Stuðningur SHA við þessa baráttu sýnir svo ekki verður um villst að samtökin berjast gegn allri heimsvaldastefnu, eins og segir í stefnuskrá þeirra. SHA berjast ekki aðeins fyrir brottför hersins frá Íslandi til að annað heimsveldi geti tekið við, það er ekki markmið samtakanna. Þau berjast gegn báðum risaveldunum og öllum hernaðarbandalögum. Fyrir fullveldi og sjálfstæði þjóða í raun, án vígvéla og hernaðarbandalaga risaveldanna. Risaveldin líta á sig sem lögreglu alls heimsins, því skulum við mótmæla kröftulega 21. ágúst næstkomandi á útifundi SHA við sovéska sendiráðið.

# Kína tilneytt að hætta aðstoð við Albaníu

Framhald af baksíðu

Í orðsendingunni segir, að Kína hafi í upphafi byggt á veikum efnahagslegum og tæknilegum grunni og að á síðari árum hafði efnahagur þess "orðið fyrir áföllum vegna spellvirkja Lín Píao og "fjórmenningaklíkunnar" svo og af alvarlegum náttúruhamförum. Það er því eðlilegt, að Kína gæti ekki orðið við öllum hinum vaxandi óskum Albaníu um aðstoð. En kínversk alþýða sparaði við sig fæði og klæði og aðstoðaði Albaníu eftir megni í anda alþjóðahyggju verkalýðsins. Í orðsendingunni er bent á, að Kína hafi haldið áfram að fullnægja skuldbindingum sínum um hjálp þrátt fyrir þá staðreynd, að síðastliðin ár hefur Albanía aftur og aftur ráðist með móðgunum á innan- og utanríkispólitík Kína. Á tímabilinu frá 1977 þangað til nú hefur Kína flutt út til Albaníu nærri því 300.000 tonn af varningi sem efnahagslega og hernaðarlega aðstoð, hjálpað Albaníu til að fullgera að mestu eða öllu leyti tíu mannvirki, samþykkt beiðni albönsku stjórnarinnar um greiðslufrest á skuldinni 217 milljónir júan(renminbi), sem greiða átti fyrir 1980, þannig að hún greiðist ekki fyrr en á tímabilinu 1991-2000, og undir ritað samning um, að Kína sjái Albaníu fyrir ókeypis varahlutum til hernaðartækja.

Í orðsendingunni segir, að nú hafi Albanía hins vegar vegna eigin þarfa í innan- og utanríkispólitík og jafnframt því, að hún herðir sína pólitísku and-kínastefnu, afflutt á skefjalausan hátt aðstoð Kína við Albaníu og reynt að spilla efnahagslegu og hernaðarlegu samstarfi landanna.

Í orðsendingunni eru taldar upp fjölmargar staðreyndir til að sýna, að þegar verið var að byggja eða gangsetja verk kostuð af kínverskri aðstoð, hafi hinn albanski aðili virt að vettugi af ásettu ráði sjónarmið kínverskra sérfræðinga, brotið starfsreglur og eftir geðþótta hafnað viðræðum. Jafnframt lýsti hann yfir því, að hinn kínverski aðili mundi verða talinn ábyrgur fyrir hvers konar mistökum.

"Kínverska stjórnin hefur alltaf metið vináttuna milli kínverskrar og albanskrar alþýðu og vonast enn til að viðhalda og þróa eðlileg samskipti Kína og Albaníu," eru síðustu orð orðsendingarinnar.



# Sameinum íslenska kommúnista í einn stjórnmálaflokk

## Svar miðstjórnar KFÍ/ML

Framhald af síðu 6.

sameiningarmálið alvarlega Fullyrðing EIKm-l um að hér sé um að ræða lokatilraun af þeirra hálfu finnst okkur bæði óskynsamleg og ábyrgðarlaus

Sameining íslenskra kommúnista er alltof mikilvægt til að við getum leyft okkur að gefast upp við það verkefni.

Varðandi kröfur EIKm-l um skýr og altæk svör, þá mun KFÍ/ML veita eins skýr svör og unnt er, innan þess frests sem þarf til að flokkurinn geti afgreitt málið á lýðræðislegan hátt. Við munum þó leitast við að svara sem fyrst. Að lokum viljum við fjalla aðeins um afstöðu okkar til sameiningar almennt.

Við teljum að sameining sameiningar vegna komi ekki til greina. Ef raunveruleg sameining á að verða þá verður hún að vera ávöxtur málefnalegrar og starfslegrar einingar. Til þess að hún geti orðið verða að fara fram opinskáar og heiðarlegar umræður milli Eik/ml og KFÍ/ml. Einnig verða samtökin að auka samstarf sitt á sem flestum sviðum og læra þannig að meta hvort annað rétt. Áður en af sameiningu samtakanna getur orðið, verður að eyða þeirri tortryggni og togstreitu sem ríkt hefur milli samtakanna. Það teljum við að verði ekki aðeins gert með yfirlýsingum og bréfaskiptum, þar þarf meira til. Samtökin þurfa að fá tækifæri til að samhæfa stefnu sína

Af miðstjórnar viðræðum höfum við reynslu og eins og alla rekur minni til mistókust þær. Okkur þykir miður að EIK/ML skuli ekki taka hugmyndinni um sameiningarráðstefnu af meiri alvöru. Við teljum þennan möguleika eða aðra í svipuðum dúr vel koma til greina. Þar fengju allir félagar og etv. stuðningsmenn beggja aðila tækifæri til að ræða málin á lýðræðislegan og málefnalegan hátt og við teljum að þetta gæti aukið líkurnar á árangri í þessu máli og lagt grundvöll að einingu. Við leggjum því enn fram þá tillögu að EIK/ML og KFÍ/ML gangist fyrir ráðstefnu eða opnum fundi þar sem félagar og stuðningsmenn samtakanna geti rætt sameiningarmálið á jafnréttisgrundvelli. Í þetta sinn vonumst við til að fá rökstudd svör, en setjum ykkur þó engan sérstakan svarafrest. Við vonum aðeins að þið skiljið nauðsyn þess að ganga að þessu máli af alvöru.

Með félagakveðju,
Framkvæmdanefnd KFÍ/ML.

# Sovésk heimsvaldastefna



Myndin er frá innrás Sovétríkjanna í Tékkóslóvakíu.



HAFIÐ SAMBAND VIÐ
KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

STYKKISHÓLMUR
Gísli Hjaltason
P. O. box 63

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

SVÍÞJÓÐ
Kristján L. Guðlaugsson
Kämnärsvägen 11N:220
222 46 LUND.



## Viðtal við nokkrar verkakonur í Eyjum

# "Ekkert fæst fyrir ekkert"

Við sögðum stuttlega í síðasta blaði frá menningardögunum í Eyjum - Maðurinn og Hafið 78. Fréttaritarar Stéttabaráttunnar áttu viðtal við nokkrar þær konur sem unnu að dagskránni "Um líf og baráttu verkakvenna". Það voru þær Sigþóra Jónatansdóttir, Eyja Halldórsdóttir, Stella Hauksdóttir, Herdís Sigurðardóttir og Ingibjörg Valgeirsdóttir. Við ræddum við þær um sjálfa dagskrána, atvinnuástand í Eyjum, verkalýðsbaráttuna o. fl.

Fyrst spurðum við þær hvers vegna þær hefðu ráðist í það að semja og flytja dagskrá eins og þessa?

- Það var rætt á félagsfundi í Snót að rétt væri að félagið legði eitthvað af mörkum til menningardaganna og þá helst eitthvað um félagið sjálft. Við vorum beðnar að taka þetta verkefni að okkur. Vilborg Harðardóttir, framkvæmdastjóri menningardaganna benti okkur á að hafa samband við Hjördísi Bergsdóttur og Dagný Kristjánsdóttur, sem báðar höfðu unnið að dagskrá um baráttu verkakvenna fyrir 8. marsfund Rauðsokkahreyfingarinnar. Það varð úr að þær komu og unnu að þessu með okkur. Dagskráin sem við fluttum er byggð á þeirri dagskrá. Það efni í dagskránni sem fjallar sérstaklega um Vestmannaeyjar er unnið uppúr gömlum fundargerðum og viðtölum við gamlar baráttukonur. Dagskráin fjallaði aðallega um baráttu og kjör verkakvenna allt frá stofnun fyrstu verkakvennafélaganna fram á þennan dag. Við tókum fyrir hvernig hagsmunir atvinnurekenda og verkafólks stangast alltaf á og hvernig hver réttindi sem við unnum hafa verið árangur harðrar baráttu. Eða eins og segir í dagskránni: "Ekkert fæst fyrir ekkert". Við höfum lært mikið af þessari dagskrá um það hvernig ástandið raunverulega er. Við höfum styrkst í baráttunni og séð hve miklu hreyfingin getur komið í verk.

En hvað finnst ykkur þá um það sem nú er að gerast innan verkalýðshreyfingarinnar og í þjóðfélagsmálum?

- Allir flokkarnir segjast vera verkalýðsflokkar, en á þingi kemur annað í ljós. Þeir eru allir verkalýðssinnar meðan þeir hafa hag af því. Hvað verkalýðshreyfinguna varðar finnst okkur pólitíkina vanta. Ekki flokkapólitík, heldur sanna verkalýðspóltík sem tekur mið af hagsmunum hreyfingarinnar.
Sömuleiðis finnst okkur að forystulið ASÍ sé of stjórnsamt í garð einstakra félaga.
T.d. var einróma samþykkt hér í Eyjum í vor að fara í yfirvinnubann. Tveimur kvöldum seinna barst bréf frá Verkamannasambandi Íslands um að við skyldum fresta banninu um óákveðinn tíma. Ástæðan sem þeir gáfu var að það átti að semja hjá Reykjavíkurborg og við áttum að miða okkur við það. Þannig reyndi forystuliðið að skikka okkur til og hagræða málunum sér til framdráttar. Eftir kosningar á svo að gleyma öllu saman.

Ásama tíma hótuðu atvinnurekendur því að loka frystihúsunum. Við teljum þetta vera hótun sem sé sífellt notuð til að beygja okkur. Ef við látum þetta stöðugt viðgangast og veitum enga andspyrnu verður þessari svipu alltaf beitt á okkur.
Almenningur er of hræddur við að láta hart mæta hörðu og það þarf að breytast. Það eina sem atvinnurekendur skilja er verkfall.

Við verðum að standa fast á rétti okkar. Félagið ætti að gera eitthvað uppá eigin spýtur grípa til róttækra aðgerða. Einnig þyrfti að styrkja samstöðuna út um allt land, sérstaklega gegn nýrri vinnulöggjöf - við verðum að vera vakandi.

Hvernig er félagið ykkar, er það öflugt?

- Já, það er virkt, óvenjulega virkt miðað við það sem virðist vera annarsstaðar á landinu. Félagslif er mikið, félagið stendur fyrir allskyns skemmtunum, ferðalögum o. fl. Miðað við önnur félög er mæting á fundi góð, en hún mætti samt vera enn meiri. Okkur finnst að það sé of mikið talað en of lítið framkvæmt. Fólk gerir of mikið af því að nöldra hvað við annað, en láta svo sitja við orðin tóm, með því að taka ekki virkan þátt í starfi verkalýðshreyfingarinnar.

Að lokum - haldið þið að þessir menningardagar muni skila góðum árangri?

- Við erum vissar um að þetta hafi verið til mikilla bóta. Skoðanaskipti og umræður eru jákvæðar. En árangurinn er fyrst og fremst undir okkur sjálfum komið. Allavega gera fleiri og fleiri sér ljóst hvernig ástandið er og stöðu okkar fiskvinnslufólksins í þjóðfélaginu.




Á áttunda mars, alþjóðlegum baráttudegi verkakvenna, hefur alltaf borið mikið á kröfum um atvinnuöryggi. Enn er þörf að herða þá baráttu, auðmennirnir eiga ekki að fá að svifta fólk lífsviðurværi sínu eftir geðþótta.



Myndin sýnir vinnusal í frystihúsi í keflavík eftir lokun þess.

# Hvert er vandamálið?

Nýlega barst inn á heimili mitt einblöðungur nokkur. Við nánari athugun kom í ljós að þetta var ekki neinn venjulegur einblöðungur, heldur var þar hægt að finna svör við öllum lífsins gátum, með því einu að lesa þennan snepil sem gefinn er út af "Samtökum heimsfriðar og Sameiningar". Til að gefa lesendum Stéttabaráttunnar tækifæri til að kynnast innihaldi þessa blaðs, ætla ég að vitna nokkuð í það. "... Hverjir erum við? Ungt fólk á öllum aldri". Þetta er nú erfitt að skilja ungt fólk á öllum aldri, oft er talað um að eldra fólk geti verið ungt í anda, en ekki svona vitleysu. Svo við tökum aðra tilvitnun". Fólk í hundrað og þrjátíu þjóðlöndum sem hefur skilið að opinberun Guðs í gegnum sr. Sun Myung Moon getur fært okkur hamingjuríkara líf. Fullkomnari fjölskyldueiningu, betra þjóðfélag, betri heim Fólk sem hefur fengið rökrétt og fullkomið svar við hinum veigamestu spurningum um Guð, lífið og tilveruna. Fólk sem nú vill gefa þér tækifæri á að njóta þessarar dýrmætu gjafar Fólk sem vill sýna fram á frábæran árangur á öllum sviðum þjóðfélagsins, og skapa betri heim með návist Guðs. Með hans krafti, en með okkar eigin höndum munum við endurbæta þennan heim".

Mikil er viskan, mikill er vísdómurinn. Messias sá er þetta fólk vitnar til er suður-Kóreani, sem fyrir nokkrum árum var mikið í sviðsljósinu sökum þeirra patentlausna sem hann hafði á öllum sköpuðum og ósköpuðum hlutum. Frægustu og útbreiddustu fréttablöð heimsins (þ. á m. Newsveek og Times) fjölluðu um hann. Lifði hann í vellystingum, átti sæg allan af bílum, húsum og verksmiðjum. Er þetta kærleikurinn sannleikurinn og lífið, að lifa eins og kóngur meðan milljónir svelta og deyja? Er þetta hinn frábæri árangur sem þeir ætla að sýna okkur á öllum sviðum þjóðlífsins? Margar af verksmiðjum hans eru staðsettar í S-Kóreu, þar sem þær eru notaðar til að framleiða vopn (eða hluti í vopn). Þegar einn af talsmönnum þessarar hreyfingar var inntur eftir áliti sínu á vopnaframleiðslunni, þá bar hann því við að stjórnin hefði sett reglur þar að lútandi. Hver maður yrði að taka þátt í framleiðslunni ef stjórnin krefðist þess. Heldur er þetta lélegt svar, því þarna er um að ræða að sr. Moon á verksmiðjur sem eru í hergagnaframleiðslunni.

Meðan á þessari öldu stóð, hvað varðaði fréttaflutning af þessum kóngi, kom það einnig í ljós að stofnaðar höfðu verið búðir víðsvegar um Bandaríkin (en þar býr hann) til að kynna mönnum hina einu og sönnu trú. Í ljós kom að stór hluti þeirra unglinga (á öllum aldri?) sem þangað fóru, urðu að sæta allskonar misþyrmingum og kúgun. Bæði að sögn þeirra sjálfra og foreldra þeirra. Er þetta návist Guðs?

Fleiri gullkorn eru í bréfi þessu. "..NOKKRAR STAÐREYNDIR ÚR OKKAR EIGIN ÞJÓÐFÉLAGI.

1. Óhugnanleg fjölgun hjónaskilnaða.
2. Börnum utan hjónabands fer fjölgandi.
3. Aldur mæðra þessara barna fer hrað lækkandi.
4. Alkóhól-og eiturlyfjaneysla vex, og nær til æ yngra fólks.
5. Unglingaglæpum fer fjölgandi, unglingar með langa afbrotaskrá eru ekki lengur sjaldgæft fyrirbrigði.
6. Sjálfsmorð eru orðin uggvænlega algeng, sama má segja um sálræn vandamál fólks.
7. Kirkjusókn meðal ungs fólks er undantekningalítið mjög léleg." Síðan kemur spurningin" Hvert er vandamálið? Kærleikurinn er vandamálið, hann vantar sannan kærleik. Maðurinn getur ekki lifað án kærleiks".

Mörg eru gullkornin fleiri í plaggi þessu, en ekki ætla ég að elta ólar við þau, heldur reyna að benda á ruglið í röksemdafærslu þessa fólks. Þessir liðir sem þarna eru taldir upp eru engin einangruð fyrirbrigði. Allir eru þeir saman tvinnaðir. Sbr. lið nr. 2og 3 þ. a. s. börnum utan hjónabands fer fjölgandi og og 3ja lið aldri mæðra þessara barna fer hraðlækkandi. Fyrstu sex liðirnir eru auðvitað alvarlegt vandamál í þjóðfélagi okkar. En þetta fólk vill ekki viðurkenna forsendurnar fyrir þeim. Þ. a. s. að við lifum í auðvaldsþjóðfélagi, sem byggir tilveru sína á arðráni og kúgun. Það þýðir ekki fyrir þessa fugla að segja auðvaldsherrunum hvar sem þá er að finna að þeir séu ekki nægilega kærleiksríkir. Þeir hugsa einungis um eigin gróða, eigin hagsmuni. Af þessu leiðir fátækt fólk, og síðan af því leiðir 1. óhugnanlega fjölgun hjónaskilnaða. 2. 3. 4. 5. 6..

Þetta eru vandamál sem hafa skapast vegna þess þjóðfélagslega óréttlætis sem ríkir víðast hvar í heiminum. Þetta eru helstu forsendurnar. Og til að þessum forsendum verði breytt, verður að breyta skipulaginu, það verður að eiga sér stað sósíalísk bylting. Þar sem verkalýðurinn tekur völdin. Því undan honum eru komnir flestir þeir sem eiga við framangreind vandamál að stríða. Varðandi 7. liðinn, þá er ekki annað en gott um hann að segja, því kirkjan hefur verið, og er enn þann dag í dag, tæki í höndum auðvaldsins til þess að fá fólk til að sætta sig við þjóðfélagsóréttlætið. Unga fólkið í dag er farið að gera sér æ betri grein fyrir því að breyta verður þjóðfélaginu, með byltingu til þess að réttlæti geti orðið í raun. Gamli frasinn að þegar einhver slær þig á aðra kinnina þá ættir þú bara að bjóða hina er sem betur fer löngu dauður. Verkafólk verður að sameinast í óvæginni baráttu gegn auðvaldinu til þess að sigra. Ekki aðeins til að sigra heldur ef það ætlar að hafa í sig og á.

Þetta Moon pakk ætti að snúa sér að atvinnurekendum og þeirra líkum, og reyna að gera þeim grein fyrir þeirri kúgun sem þeir beita verkafólk. En það gera þeir ekki því líkur sækir líkan heim.

# Aðgreining þriggja heima er vísindaleg marxisk úttekt á núverandi heimsástandi

Kenning Mao tse tung um hina þrjá heima, hefur valdið miklum deilum innan heimshreyfingar marx-lenínista. Hæst risu þessar deilur, nú fyrr í sumar með formlegum vinslitum milli Kínverja og Albana. Albanir hafa haldið því fram að þessi vísindalega greining Maós á ástandinu í heiminum í dag sé endurskoðunarsinnuð, og til þess eins að villa alla einlæga baráttusinna fyrir frelsi og sósíalisma af réttri leið. Í ljósi alls þessa er mjög mikilvægt að allir and-heimsvaldasinnar og baráttusinnar fyrir frelsun verkalýðsstéttarinnar kynni sér mjög vel þær kenningar sem liggja til grundvallar fyrir þessu þessum ágreiningi. Ritnefnd Stéttabaráttunnar vonar að þessi grein sem tekinn er úr ritstjórnargrein Dagblaðs Alþýðunnar í Kína geti orðið kveikja að áframhaldandi rannsókn á deilum þessum.




Úr ritstjórnargrein Dagblaðs Alþýðunnar 1. nóvember 1977.

Kenning Maó formanns um þrjá heima er vísindalegt ágrip af hlutlægum veruleika stéttabaráttunnar um víða veröld samtímans. Með þessari kenningu viðheldur hann, ver og þróar grundvallar reglur marxismans-lenínismans. Í viðræðum sínum við leiðtoga þriðja heims ríkja, sem áttu sér stað í febrúarmánuði 1974, sagði Maó formaður: " Út frá mínu sjónarmiði eru Bandaríkin og Sovétríkin fyrsti heimurinn, Japan, Evrópa og Canada eru miðsvæðis og tilheyra öðrum heiminum. Við erum þriðji heimurinn." " Þriðji heimurinn hefur geysilegan fólksfjölda. Ef Japan er undanskilið, tilheyrir Asía þriðja heiminum. Öll Afríka tilheyrir þriðja heiminum og latneska Ameríka einnig." Þessi aðgreining er vísindaleg niðurstaða sem byggir á skilgreiningu þeirrar þróunar og breytinga sem grundvallarmóthverfurnar í heimi samtímans hafa tekið í samræmi við kenningu Leníns um að yfirstandandi tímaskeið sé tímaskeið heimsvaldastefnu og sósíalískra byltinga. Að þróun heimsvaldaríkjanna sé misjöfn og að heimsvaldaríkin muni óhjákvæmilega reyna að skipta heiminum upp að nýju með tilstyrk styrjaldar. Og loks, þar sem heimsvaldastefnan hafi fært með sér skiptingu alls heimsins í kúgandi og kúgaðar þjóðir, verði hin alþjóðlega öreigastétt að berjast við hlið kúgaðra þjóða. Til þess að geta skilið kenningu Maó um aðgreiningu þriggja heima verðum við að notfæra okkur díalektíska efnishyggju til þess að meta samtíma pólitísk fyrirbæri á alþjóðavettvangi og hefja athugun okkar út frá veruleikanum og ekki út frá sértekningum. Þetta gerðu Lenín og Stalín þegar þeir fjölluðu um sambandið milli þjóðlegra vandamála. Þeir sögðu að þessi vandamál " mætti ekki skoða án samhengis, heldur á ... heimsmælikvarða "1. og ætti að meta ekki samkvæmt sjónarmiðum formlegs lýðræðis, heldur samkvæmt sjónarmiðum raunhæfra afleiðinga, eins og þær birtast á almennum viðskiptareikningi baráttunnar gegn heimsvaldastefnunni " 2. Það kann svo að virðast sem þessi kenning Maó formanns taki aðeins tengslin milli landa og milli þjóða í heimi samtímans með í reikninginn. En inntak hennar kemur beint að kjarna hins lífsnauðsynlega viðfangsefnis samtíma stéttabaráttu um víða veröld. Þegar öll kurl eru komin til grafar, er þjóðleg barátta stéttabarátta 3. Hið sama á við um tengslin milli landa. Tengslin milli landa eða þjóða eru reist á tengslum milli stétta, og þau eru innbyrðis tengd og feiknarlega flókin. Við getum naumast fellt rétta dóma um pólitísk fyrirbæri á alþjóðavettvangi og gert rétta greiningu á pólitískum öflum heimsins, ef við nálgumst þau út frá sjónarmiðum hughyggju eða frumspeki og skoðum þau sértekið og einangrað, í stað þess að ganga út frá alþjóðlegri stéttabaráttu í heild og gera hlutstæðar skilgreiningar á hlutstæðum atburðum á vissum tíma, á vissum stað og við viss skilyrði. Marxistar-Lenínistar aðhyllast ófrávíkjanlega afstöðu hinnar alþjóðlegu öreigastéttar, halda á lofti almennum hagsmunum byltingarsinnaðrar alþýðu allra landa í alþjóðlegri stéttabaráttu og berjast einarðlega fyrir því langtíma stefnumiði sínu, að kommúnískt kerfi leysi auðvaldskerfið af hólmi. En með tillliti til þessara baráttu er ástandið flókið og hverfult. Alþjóðleg borgarastétt hefur aldrei verið einkynja heild, né heldur getur svo orðið. Hin alþjóðlega verkalýðshreyfing hefur einnig orðið að reyna hvern klofninginn af öðrum, þar sem hún er undir áhrifum annarra stétta. Þegar heyja skal baráttuna á alþjóðlegum vettvangi, verður öreigalýðurinn að sameinast öllum sem sem hægt er að sameina, með tillliti til þess sem er afgerandi og framkvæmanlegt á hinum ýmsu sögulegu tímaskeiðum, til þess að þróa framfarasinnuð öfl, vinna milliöflin til fylgis og einangra þá sem eru óforbetranlegir 4. Þess vegna getum við aldrei lagt fram einhverja óbreytanlega og fasta formúlu fyrir því hvernig aðgreina skuli pólitísk öfl veraldarinnar (þ.e. að aðgreina okkur sjálfa og vini okkar frá óvinunum í alþjóðlegri stéttabaráttu).

Eftir að fyrsta sósíalíska ríkið hafði komið til sögunnar, sagði Lenín árið 1921, með tilvísun til tvenns konar utanríkisstefnu, borgaralegrar og verkalýðssinnaðrar, að " nú eru til tveir heimar: hinn gamli heimur kapitalismans... og hinn uppvaxandi nýi heimur ..." 5. Stalín sagði árið 1919, " Heimurinn hefur endanlega og óafturkallanlega skipst í tvær herbúðir: herbúðir heimsvaldastefnunnar og herbúðir sósíalismans " 6. Skiljanlega endurspeglaði þessi niðurstaða hina nýju grundvallarmóthverfu í heiminum sem varð til eftir Októberbyltinguna. En hvorki Lenín né Stalín neituðu því, að til væru aðrar grundvallarmóthverfur í heiminum eða til væru aðrar aðferðir til þess að aðgreina pólitísk öfl heimsins. Til að mynda, sagði Lenín í skýrslu sinni um nýlendu- og þjóðernisvandamálin sem hann flutti á öðru þingi Kominterns 1920; " Sérkenni heimsvaldastefnunnar felst í því að öllum heiminum... hefur verið skipt upp í fjölmargar kúgaðar þjóðir og óverulegan fjölda kúgandi þjóða, og hinar síðarnefndu ráða yfir geysilegum auðævum og öflugum herjum " 7. Þegar Stalín fjallaði um þjóðernisvandamálið í Grundvelli Lenínismans, sem út kom 1924, sagði hann líka að " ... heimurinn er skiptur í tvær herbúðir: í öðrum herbúðunum er handfylli menningarþjóða, sem ráða yfir fjármálaauðvaldi og arðræna yfirgnæfandi meirihluta íbúa jarðarinnar; í hinum herbúðunum er kúguð og arðrænd alþýða nýlendna og háðra landa, en hún er hinn áðurnefndi meirihluti " 8. Í rauninni endurspegluðu þessar niðurstöður tilvist annars konar grundvallarmóthverfu í heiminum. Aðgreiningarnar sem Lenín og Stalín hafa gert eru án alls efa báðar réttar, mismunurinn liggur aðeins í áhersluskipaninni. Þegar þeir þurftu að gera yfirgripsmikla og hlutstæða aðgreiningu pólitískra afla heimsins á vissu tímaskeiði, hófust þeir handa með alyfirtækri rannsókn á hinum mörgu grundvallarmóthverfum sem til voru í heiminum. Breyting alls heimsins úr kapitalísku í sósíalískt kerfi er mjög langt og torfarið ferli, fullt af flóknum átökum og það er óhjákvæmilegt að á ferlinu breytist uppröðun pólitískra afla heimsins á mismunandi tímaskeiðum. Hin hlutlægu skilyrði stéttabaráttu heimsins ákvarða aðgreiningu öreiganna á pólitískum öflum heimsins og þá stjórnlist og baráttuaðferð sem henni fylgir og beita á í baráttunni. Það mun hjálpa okkur til skilnings á kenningunni um þrjá heima, ef við lítum lauslega á ákveðnar sögulegar kringumstæður þar sem Marx, Engels Lenín, Stalín og Maó formaður aðgreindu pólitísk öfl heimsins. Þótt Marx og Engels ynnu byltingarstörf sín einkum í V-Evrópu höfðu þeir ófrávíkjanlega almennt ástand í Evrópu og heiminum í heild í huga, þegar þeir mátu stéttabaráttuna í hinum ýmsu löndum. Í fyrsta skipti í sögunni settu þeir fram hina miklu áskorun " Öreigar allra landa sameinist " og ennig í fyrsta skipti bentu þeir á að málstaður hinnar alþjóðlegu öreigastéttar væri óaðskiljanlega bundinn baráttu kúgaðra þjóða fyrir frelsi. Engels sagði: " Þjóð getur ekki orðið frjáls og jafnframt haldið áfram að kúga aðrar þjóðir. Frelsi Þýskalands getur ekki orðið án þess að Pólland verði frjálst undan þýskri kúgun " 9. Marx sagði: " Eftir að hafa sýslað við vandamál Írlands í mörg ár, hef ég komist að þeirri niðurstöðu, að rothöggið á ráðastéttir Englands (og það verður afgerandi fyrir verkalýðshreyfinguna um alla veröld) geti ekki verið greitt í Englandi sjálfu heldur aðeins á Írlandi " 10. Bæði Marx og Engels litu á sjálfstæðisbaráttuna, ekki aðeins hjá evrópskum þjóðum eins og Póllandi og Írlandi heldur einnig þá sem háð var í löndum fjarri Evrópu, eins og Kína og Indlandi, sem mjög mikilvæga. Heildarhagsmunir hinnar alþjóðlegu öreigastéttar voru ævinlega sá grunnur sem þeir reistu rannsóknir sínar á sérstökum þjóðernishreyfingum og pólitískum öflum á. Eins og Lenín benti á, " Marx studdi sem kunnugt er sjálfstæði Póllands í þágu Evrópsks lýðræðis, þegar það háði baráttu gegn valdi og áhrifum - eða réttara sagt gegn ægivaldi og ríkjandi afturhaldsáhrifum zarismans " 11. Engels sagði um Marx, að einn þátturinn í framlagi hans væri sá, að hann hafi verið fyrstur til að vekja athygli á því, árið 1848 - og hann lagði síðar oftlega áherslu á það - að " V-Evrópsku verkamannaflokkarnir yrðu nauðsynlega að heyja ósáttfúst stríð gegn rússneska Zarismanum " 12, af því að rússneska keisaraveldið var helsta vígi evrópsks afturhalds og af því að það nærði ávallt með sér útþenslugirni gagnvart Evrópu og stefndi að því að gera frelsun evrópsks verkalýðs ómögulega.

Greininni verður framhaldið í næsta blaði.

# Um líf og baráttu verkakvenna

Eftirfarandi kafli er hluti dagskrár þeirrar sem verkakonur í Snót fluttu á Maðurinn og Hafið 78 - menningardögunum í Eyjum nú í vor Kaflinn fjallar um stofnun fyrstu kvennaverkalýðsfélaganna, baráttu þeirra og viðureignir við atvinnurekendur á kreppuárunum.

Við erum þeirrar skoðunar að margt sé líkt með þeirri baráttu sem verkakonur í Eyjum háðu þá og þess sem gerist enn í dag. Þessvegna birtum við þennan kafla og vonum að eitthvað megi af honum læra.

Fyrsta verkakvennafélagið í Vestmannaeyjum var stofnað árið 19 ? og hlaut nafnið Hvöt Á stofnfundinum voru mættar 68 konur. Þetta fyrsta verkakvennafélag var ekki ýkja burðugt - satt að segja - og það entist ekki lengur en árið.

Aðalmál félagsins var að sjálfsögðu kaupgjaldsmálið. Á einum af fyrstu fundunum var lagt fram uppkast að kauptaxta sem stjórnin hafði sett saman: Í þessum taxta var gert ráð fyrir hvorki meira né minna en 90 aurum á klukkustund fram til kl. 6 á kvöldin en 1.25 á tímann í eftirvinnu og næturvinnu. Þessi taxti var þannig tíu aurum hærri en taxti Framsóknar í Reykjavík. Mörgum félagskonunum leist ekkert á að þetta næði fram að ganga og það var ekki furða því að yfirleitt voru aðeins borgaðir 70 aurar á tímann í Reykjavík og af fundargerðarbókum Hvatar er ekki annað að sjá en að Tanginn hafi farið alveg niður í 40 aura á klukkustund fyrir fiskbreiðslu.

Hvöt skipaði samninganefnd sem reyndi að koma einhverjum taxta saman - en það gekk ekki Það kom upp ágreiningur í félaginu út af minnstu málum, fundir voru illa sóttir og félagið leystist loksins upp.

Þó að ferill Hvatar hafi ekki verið sérlega glæsilegur er þess að geta að félagið átti undir högg að sækja með öll sín mál - Forystukonurnar þurftu ekki aðeins að kljást við atvinnurekendur sem voru ekkert nema hrokinn - heldur þurftu þær líka að glíma við óþroskaða stéttarvitund verkakvennanna. Ein af baráttukonunum frá þessum tíma segir svo frá:

Það var ekki skylda að vera í verkalýðsfélagi og þær sem voru ófélagsbundnar gengu jafnvel fyrir með vinnu. Við þurftum að ganga í húsin og tala við konurnar - sumar aftur og aftur - og reyna að nudda þeim til að ganga í félagið. Það voru stundum óþvegnar kveðjur sem maður fékk.

Eftir að Hvöt lognaðist út af lækkuðu atvinnurekendur kaup verkakvennanna alveg niður í 55 aura á klukkustund þannig að félagið hafði þrátt fyrir allt verið visst aðhald. Og þetta gat ekki gengið - verkakonurnar snéru sér því til verkamannafélagsins Drífanda og stofnuð var sérstök kvennadeild í félaginu. Árið 1932 var svo hinn frægi Kveldúlfsslagur í Vestmannaeyjum:

Tildrög verkfallsins voru þau að fiskverkunartaxtinn hafði verið brotinn hjá Kveldúlfi - en það fyrirtæki hefur áður komið við þessa sögu enda frægt að endemum. Fiskverkunarstöð Kveldúlfs var stærsta fiskverkunarstöðin í Eyjum á þessum tíma. Hér í eyjunum var atvinnuleysi alltaf á næstu grösum fyrir utan hið árstíðabundna atvinnuleysi á haustin og fram að vertíð - þegar alls enga vinnu var að fá. Það var því ekki sérlega sniðugt fyrir eyjabúa þegar útgerðarmenn byrjuðu að flytja fiskinn, hráefnið, óunnið upp á land. Þeir seldu til dæmis óverkaðan fisk til Hafnarfjarðar á meðan Vestmannaeyingar gengu atvinnulausir. Atvinnuleysið og erfiðleikar manna þar af leiðandi ætluðu atvinnurekendur síðan að notfæra sér og skerða laun verkafólksins í skjóli þess. Þessu var svarað með skörulegum aðgerðum. Jón Rafnsson segir svo frá í bókinni Vor í verum:

Á vinnustaðnum hefur sérstakri nefnd verið falið að bera fram við fulltrúa Kveldúlfs kvartanir út af kauplækkuninni. Og þegar gengið hefur verið úr skugga um, að atvinnurekandinn virðir þær kvartanir að vettugi, heldur forysta Verkamannafélagsins Drífanda niður á vinnustaðinn, með allstóran hóp manna, og fyrirskipar vinnustöðvun. Allur þorri fólksins hlítir umvrðalaust skipuninni. Nokkrir verða þó að fá hjálp okkar komumanna til að geta hætt, en það er sjáanlega til málamynda yfirleitt. Þá er haldinn stuttur fundur á staðnum og settar verkfallsvaktir; í þeim eru þátttakendur menn og konur, félagsbundið og ófélagsbundið fólk, jöfnum höndum.



Það er ekki hægt að segja að kröfur verkamannafélagsins hafi verið óbilgjarnar: 75 aura á tímann fyrir konurnar; 18o kr. í mánaðarlaun fyrir þær en 25o krónur fyrir karlana. Til samanburðar má geta þess að verslunarstjóri hér í Eyjum hafði á þessum tíma 300 kr. í mánaðarlaun en um laun atvinnurekendanna vitum við ekki - enda sjálfsagt erfitt að fá alvörutölur um þau þá eins og nú. Jón Rafnsson segir svo frá:

Vinnustöðvunin nær ekki aðeins til fiskþvottastöðvarinnar, heldur einnig til þurrkreitanna sömuleiðis allra flutninga að og frá reitum og húsum. Það krefst því mikils mannafla að hafa verkfallsvaktir á öllum þessum stöðum, sólarhringinn út, því nú er nótt björt og auðvelt að vinna á hvaða tíma sem er, ef í það fer. Verkalýðssamtökunum verður þó ekki skotaskuld úr þessu, því að fjöldi atvinnulausra manna og kvenna gefur sig fram til liðs við fiskverkunarfólkið, í stað þess að láta vonir andstæðinganna rætast með því að sælast eftir þeirri vinnu, sem það hafði lagt niður til að halda uppi launakjörum stéttarinnar

Verkfallið stóð í 11 daga og því lauk með fullnaðarsigri verkafólksins. Það fékk ekki aðeins kaupkröfunum framgengt heldur líka kröfum um að atvinnurekandi tæki aftur í vinnu þá sem unnið höfðu hjá honum fyrir verkfall. Sú krafa var mjög mikilvæg því að mörg dæmi voru um að atvinnurekendur beittu refsiaðgerðum gegn verkamönnum sem tóku þátt í verkföllum og neituðu þeim um vinnu eftir að verkfalli lauk. Auk þess skuldbatt vinnslustöð Kveldúlfs sig til að láta fullvinna allan fisk í Vestmannaeyjum. Þessi sigur verkafólksins var ákaflega mikils virði.

Konurnar börðust við hlið karlanna - þær stóðu verkfalls vörð og stóðu karlmönnunum síst að baki í hörku og harðfylgni. Kveldúlfsverkfallið færði líka mörgum heim sanninn um að með samstöðu og stéttvísi verkalýðsins var hægt að knésetja atvinnurekendur og auðvaldið í Eyjum.

En það var ekki alltaf jafn mikil samstöðu-veisla og í Kveldúlfsverkfallinu. Sama ár, eða árið 1932, um haustið var verkakvennafélagið Snót stofnað. Í fundargerðarbók Snótar segir svo um stofnfundinn:

Sunnudaginn 6. nóvember 1932 kl. hálf níu komu saman að Breiðabliki nokkrar konur til að ræða stofnun verkakvennafélags.... Kom þá fram svohljóðandi tillaga frá Vilborgu Þórðardóttur: "Þar sem margítrekaðar tilraunir hafa verið gjörðar til þess að gjöra okkur tortryggilegar í augum verkakvenna hjer í bæ, þá skora ég hjer á allar konur sem hjer eru mættar að kvika hvergi frá (settu) marki og stofna nú þegar verkakvennafjelag á þessum fundi."

Tillagan var borin undir atkvæði og samþykkt með öllum greiddum atkvæðum.

Kvennadeild verkamannafélagsins Drífanda hafði beðið Snótarkonur að ræða þetta verkakvennafélagsmál við þær, en fyrsta verk stofnfundarins var einmitt að fella þá tillögu.

Nú er skemmst frá að segja að hin nýstofnaða Snót sækir um inngöngu í Alþýðusambandið og fær hana þegar í stað. Um leið fékk félagið samningsumboð og rétt til að semja um kaup og kjör. verkakvenna í Vestmannaeyjum - sem voru flestar í Drífanda. Og nú fór í hönd tímabil sem ekki er beint hægt að kalla "friðsamlega sambúð".

Jón Sigurðsson, erindreki Alþýðusambandsins, heimsótti Snótarkonur í Vestmannaeyjum oft og mörgum sinnum og stappaði í þær stálinu og veitti ekkert af því. Félagið var ákaflega fámennt, fundarsókn léleg og Drífandakonur ansi erfiðar viðurskiptis. Þó var nú ef til vill erfiðast að kyngja því að flokkurinn þynntist jafnt og þétt og jafnvel stjórnarkonurnar byrjuðu að tínast burt og yfir í Drífanda.

Jón Sigurðsson þreyttist hins vegar ekkert á því að boða Snótarkonum hugheilan stuðning Alþýðusambandsins og Alþýðuflokksins sem þá voru nánast eitt og hið sama því að menn urðu að vera í flokknum til að komast inn í sambandið. Þann fimmta febrúar 1935 var svo haldinn útbreiðslufundur hjá Snót og aldrei þessu vant var Drífanda konunum sleppt inn á fundinn. Frá honum segir svo m.a. í fundargerðabók:

Byrjaði þá Ólafía Óladóttir úr kvennadeild Drífanda með ádeilur til formanns félagsins og sömuleiðis kemur hún með fyrirspurn um hvort karlmenn hafi rjett til að sitja fundinn. Formaður svarar þeirri spurningu með hógværð og kurteisi að verkakvennafjelagið hafi boðið þessum eina karlmanni sem staddur er hjer á fundinum og skýrir frá því að hann sje fulltrúi frá sambandinu, byrja þá konur úr deild Drífanda að deila á hann, svara hinum um allskonar óknytti, sem hann ekki virti svars, sömuleiðis vildu þær fá leyfi til að láta Jón Rafnsson sitja á fundinum....

Helga Rafnsdóttir tekur til máls...og svo hnýtti hún í fulltrúann, kallaði hann sprengir og klofning, ásamt mörgum miður fínum orðum...Jón Sigurðsson talaði...um nauðsyn þess að allar konur sjeu félagsbundnar og þó Snót sje minni en deildin úr Drífanda þá sje hún samt öflugri því hún hafi stuðning frá sambandinu...og skýrir fulltrúi frá sinni starfsemi í Reykjavík og víðar og talar um að það hafi sjaldan reynst vel að vinna með kommúnistum...

Marta segir frá kaupdeilunni við Kveldúlf fyrir tveimur árum síðan og þakkar Drífanda hvað þeirri deilu lauk vel, en kvað það sama hvort verið væri í sambandinu eða ekki. Formaður gefur skýringar um að sambandið hafi átt sinn þátt í sigrinum í deilunni við Kveldúlf og þá hafi hún fundið til þess hvað það væri leiðinlegt að ekki væri til sjálfstætt verkakvennafélag á staðnum og þá hafi henni komið til hugar að gaman væri að stofna sjálfstætt kvennafélag en fyrir þetta fékk hún mestu hnútuköst frá konum úr Drífanda. Þær deildu á hana hver eftir aðra, en formaður tók því öllu með mestu þolinmæði...Svo varð að slíta fundi sökum óeirða - þó áhugamálið væri óafgreitt.

Og væringarnar héldu áfram og urðu stöðugt svæsnari. Á fundi hjá Snót þann 31. mars segir ein stjórnarkonan að:

...komið gæti til mála að kvennadeildarkonur ættu innkvæmt í Snót (en) ef til þess kæmi yrði að "sortéra" vandlega þann hóp. Kvað hún Drífandakonur tæpast siðaðar manneskjur (segir í fundargerð) og þar af leiðandi ekki hæfar í félagsskap með siðuðu fólki.

Það er skylt að taka það fram að þessi fundargerð sem hér var vitnað í var ekki samþykkt á næsta fundi þar sem hún þótti of hlutdræg. Það er nú kannski engin furða þó að svo hafi verið því eitt af aðalhitamálum fundarins var nefnilega það að fundarritarinn (sem skrifaði fundargerðina) og önnur kona voru reknar úr félaginu með meirihluta atkvæða - vegna augljóss stuðnings þeirra við Drífandakonurnar.

Þetta reiptog milli félaganna stóð fram til ársins 1937 og geðshræringarnar í fundargerðarbókum Snótar eru ekkert smáræði. Hlutur Alþýðusambandsins í þessum átökum var ekki lítill og hér mál kannski skjóta því að, að á þessum tíma var það yfirlýst alþjóðleg stefna kommúnista að samfylkja með öllum vinstri sinnuðum öflum og mynda þannig samfylkingu gegn fasismanum sem þá var í skelfilegum uppgangi. Ólafur R. Einarsson hefur hins vegar nýlega fundið gögn um það í Kaupmannahöfn að á þessum tíma styrktu dönsku sósíaldemókratarnir íslenska Alþýðuflokkinn og það var aðeins sett eitt skilyrði fyrir fjárveitingunum, en það var það að íslenski Alþýðuflokkurinn skyldi berjast með oddi og egg gegn kommúnismanum.

Á þessum tíma var alvarlegur pólitískur klofningur í Verkalýðsfélögunum milli Alþýðuflokksmanna og Kommúnista. En kreppuárin voru gróskutími félagsstarfs og voru fjölmörg verkalýðsfélög stofnuð, bæði staðbundin félög og félög í litlum nýjum atvinnugreinum. Árið 1934 var Starfsstúlknafélagið Sókn stofnað í Reykjavík. Í manntali 192o voru yfir 5000 konur skráðar sem vistráðnar á einkaheimilum. Smám saman fjölgaði svo félagslegum stofnunum sem sáu um þau verk sem áður höfðu verið unnin á heimilum s.s. spítölum hælum, elli-og barnaheimilum Þegar verkakonur á þessum stofnunum voru orðnar það margar að þær þörfnuðust stéttarfélags var Sókn stofnuð. Í viðtali við Aðalheiði Hólm, fyrsta formann Sóknar segir m.a. um upphaf félagsins:

" Kjörin voru slæm og fólkið var óánægt. Stúlkurnar vildu aðhafast eitthvað. Framsókn var fyrir verkakonur í fiskiðnaði. Veiki hlekkurinn í íslenskri verkalýðsbaráttu er skiptingin í öll þessi smáfélög. Smáfélögin varð að stofna vegna vanrækslu Alþýðusambandsins að vaka yfir rétti fólks og skipuleggja verkalýðsbaráttuna. Hér var stofnað félag hárgreiðslukvenna, ræstingakvennafélagið Freyja, svo kom Sókn og þá veitingastúlkur.

Róttæka fólkið, sem taldi sig til Kommúnistaflokksins, studdi okkur. En við urðum að fara voðalega varlega og hitta það á laun því Alþýðusambandinu var stjórnað af jafnaðarmönnum. Kommúnistarnir voru okkur miklu traustari hjálp en hinir sem réðu, en við þurftum að öðlast traust til að komast á þing sambandsins og við þurftum að komast inn í fulltrúaráðið. Í Alþýðusambandið urðum við auðvitað að komast til að öðlast samningsréttindi. ASÍ hafði samningsrétt við ríkið."

# Sameinum íslenska kommúnista í einn stjórnmálaflokk

## Opið bréf frá EIK ml til "KFÍ/ML"

Framkvæmdanefnd EIKm-l hefur ákveðið að gera úrslitatilraun til að ná einingu við "KFÍ/ML". Þetta opna bréf er ítrekun á fyrri einingartilraunum EIKm-l, og um leið lokatilraun af hálfu EIKm-l. Bréf þetta setur í sjálfu sér ekkert nýtt fram, en dregur saman hvað gert hefur verið af hálfu EIKm-l til að ná einingu, og setur fram á skýran og afdráttarlausan hátt hver skilyrði einingar eru.

A. Afstaða EIKm-l til "KSML/KFÍ/ML"

EIKm-l hafa ávallt haft þá réttu afstöðu til KSML (1972 - 1976) og "KFÍ/ML" (1976 - ) að hvorug þessarra samtaka hafi verið marx-lenínísk og kommúnísk. ~~KSM~~ KSML voru hálftrotskísk og "vinstri" róttæk samtök er tóku framsækna afstöðu í mjög fáum baráttumálum, eða með orðum miðstjórnar KSML í bréfi til EIKm-l: "KSML höfðu alranga stefnu í flestum eða öllum baráttumálum". Þar af leiðandi gátu þau ekki haft rétta afstöðu til grundvallaratriða marx-lenínismans/kenninga Maós Tsetúngs - þó svo segi í sama bréfi.

"KFÍ/ML" er hentistefnu- og endurskoðunarsinnuð samtök sem sveiflast milli "vinstri" og hægri afstöðu. Samtökin hafa í nokkrum atriðum ranga afstöðu til grundvallaratriða marx-lenínismans/kenninga Maós Tsetúngs, þau hafa ranga stefnu í flestum baráttumálum, þau hafa ekki gert upp við arfinn frá KSML og samfylkja með trotskistum.

EIKm-l hafa samtímis litið réttilega svo á að innan KSML og "KFÍ/ML" hafi verið og sé enn að finna baráttusinna, fólk sem stendur marx-lenínisma/kenningum Maós Tsetúngs nærri og kommúnista. Þess vegna hafa EIKm-l ávallt haft samskipti einhvers konar við KSML/"KFÍ/ML", þar til "KFÍ/ML" hundsaði algerlega sameiningargrundvöll EIKm-l í árslok 1977.

B. Einingarviðleitni EIKm-l

Í fyrsta lagi sést sameiningarviðleitni EIKm-l á því að miðstjórn KSML var afhent stefnuskrá marx-lenínista innan Fylkingarinnar áður en EIKm-l voru stofnuð. Farið var fram á viðræður við miðstjórnina, en hún setti kommúnistum þá kosti að ganga í KSML eða láta af viðræðum að loknum tveim fundum (sept/okt 1974).

Í öðru lagi skal nefnd áskorun stofnþings EIKm-l til KSML um opnar og fræðilegar umræður í málgögnum samtakanna (janúar 1975). KSML svöruðu aldrei áskoruninni.

Í þriðja lagi skal nefnd afstaða EIKm-l til tilboðs KSML um sameiginlega flokksstofnun samtakanna í apríl 1976. EIKm-l höfnuðu dagsetningu stofnþingsins en sögðu sig reiðubúin til sameiningar að uppfylltum þessum skilyrðum:

1. Grundvallareining um marx-lenínismann/kenningar Maós Tsetúngs.
2. Grundvallareining um skipulag og starfshætti flokksins.
3. Eining um baráttustefnu í helstu málum stéttabaráttu dagsins.
4. Sjálfsgagnrýni beggja samtaka á fyrri villur.

KSML höfnuðu þessu.

Í fjórða lagi skal nefnd sameiginleg yfirlýsing EIKm-l og KSML frá vorinu 1976 um nauðsyn aukinnar einingar samtakanna.

Í fimmta lagi skal nefndur sameiningargrundvöllur sem EIKm-l setti fram í september 1976, með ósk um svör "KFÍ/ML". Þurfti 4 opin bréf (nóv. 1976 til nóv. 1977) til að þvinga fram viðbrögð forystu "KFÍ/ML". Engin svör bárust nema við örfáum atriðum, en EIKm-l var boðið til "sameiningarráðstefnu" í staðinn og ásökuð um klofning!

Auk þess hafa EIKm-l beitt sér fyrir samvinnu við KSML/"KFÍ/ML" um árabil, t.d. 1. maí, í landhelgisbaráttunni, í baráttu gegn erlendri stóriðju, í and-heimsvaldabaráttu m.a. 21. ágúst 1976 o.fl.; nær alltaf með litlum árangri.

C. Nauðsyn kommúnistaflokks

"KFÍ/ML" uppfyllir á engan hátt skilyrði kommúnísks forystuflokks. EIKm-l hafa uppfyllt þau öll nema skref það sem felst í því að vera á fullnægjandi hátt skipulagsbundin brjóstfylking verkalýðsstéttarinnar - þ.e. hluti hennar með ákveðin fjölda verkamanna innan samtakanna.

Í ljósi þess að efnahagskreppa og pólitísk kreppa dýpkar á Íslandi (sem víða annars staðar), í ljósi þess að átök risaveldanna stefna að heimsstyrjöld og í ljósi þess að EIKm-l hafa ákveðið stofnun raunverulegs kommúnistaflokks fyrir árslok 1979, er sameining íslenskra kommúnista enn brýnni en áður. EIKm-l hafa þegar sameinað þorra þeirra í ein samtök, en það er mat EIKm-l að enn lengra sé unnt að ná.

Af þessu leiðir að félögum "KFÍ/ML" ber skylda til að taka afstöðu til þessa bréfs og vinna að sameiningu kommúnista.

Þess ber að gæta enn fremur, að "KFÍ/ML" þróast ekki fram á við, og eru afar aflítil samtök á alla lund.

D. Hvers konar sameining?

EIKm-l eru reiðubúin að leysa upp samtökin að uppfylltum skilyrðum í lið E (Sjá hér á eftir).

EIKm-l gera sömu kröfu til "KFÍ/ML".

EIKm-l krefjast þess að slíkar aðgerðir verði samhliða stofnþingi íslensks komm kommúnistaflokks fyrir 1980, en að á undan hafi samskipti beggja samtakanna sýnt að skilyrði í E-lið séu uppfyllt. Um þau gera EIKm-l engar málamiðlanir.

EIKm-l hafa þá afstöðu, að val forystu, ákvarðanir o.s.fr. hins nýja flokks verði aðeins framkvæmdar eða teknar með afli lýðræðislegs miðstjórnarvalds og meirihlutavalds flokksins, ekki með hrossakaupum milli samtakanna fyrirfram.

EIKm-l hafa þá afstöðu, að allar eigur samtakanna og stofnanir þeirra verði sameinaðar og þeim veitt forysta á sama hátt og fyrr er nefnt. EIKm-l krefjast þess að stefnuskrá og lög flokksins verði sameign allra félaga, þannig að þeir sem taki afstöðu gegn öðru eða hvoru tveggja skoðist ekki sem félagar flokksins.

EIKm-l álíta opið hvernig undirbúningur sameiningarinnar fari fram, og að það sé samkomulagsatriði.

E. Skilyrði sameiningarinnar.

Forsendur fyrir því að EIKml sé til viðtals um sameiningu við "KFÍ/ML" eru þessar

a) "KFÍ/ML opinberi skriflega skýr og altæk svör og athugasemdir við köflum 2, 3 og 4 í sameiningargrundvelli EIKm-l frá sept. 1976.

b) "KFÍ/ML" opinberi skriflega skýr og altæk svör og athugasemdir við ályktun EIK m-l um alþjóðamál frá sumarþingi EIKm-l 1977.

c) "KFÍ/ML" geri opinberar og skriflegar athugasemdir við plagg þetta.

Þá fyrst meta EIK m-l hvort þau taki upp viðræður við "KFÍ/ML" og hvers eðlis samtökin óska að þær verði.

Forsendur fyrir fullri sameiningu samtakanna eru þessar:

d) Samstaða sé milli samtakanna í öllum höfuðatriðum um kafla2, 3 og 4 í sameiningargrundvelli EIKm-l og um alþjóðaályktunina (Liðir a og hér að framan).

e) Samstaða sé milli samtakanna um skipulag og starfshætti kommúnistaflokksins.

f) Samstaða sé milli samtakanna um grundvallarstefnu og baráttuaðferðir í baráttumálum dagsins á sviði andheimsvaldabaráttu, verkalýðsbaráttu, kvennabaráttu og námsmannabaráttu, semog hvað varðar viðhorf til aðferðar samfylkingar almennt.

F. Lokaorð.

EIKm-l hvetja alla félaga "KFÍ/ML", svo og alla baráttu sinna hvar sem er, til að gaumgæfa þetta bréf og taka afstöðu til þess.

Um er að ræða lokatilraun EIKm-l til þess að ná einingu með "KFÍ/ML".

Svarafrestur við þessu Plaggi í heild og liðum a og b í E lið er 1. október 1978. Hafi svörin ekki borist fyrir þann dag, skýr og altæk, álíta EIK m-l að "KFÍ/ML" hafni einingu og bréfinu alfarið. Velji "KFÍ/ML" þann kostinn þá munu EIKm-l líta á "flokkinn" sem meðvitað og andbyltingarsinnað klofningsafl og haga baráttu sinni í samræmi við það.

Reykjavík, 25. júlí 1978

Fyrir hönd framkvæmdanefndar miðstjórnar EIKm-l
Ari T. Guðmundsson

## Svar miðstjórnar KFÍ/ML

Reykjavík 2. 8. 1978

Við höfum nú fyrir skömmu fengið í hendur bréf ykkar frá 25.7., sem ber yfirskriftina "Sameinum íslenska kommúnista í einn stjórnmálaflokk."

KFÍ/ML fagnar öllum tilraunum til sameiningar íslenskra kommúnista og mun heilshugar taka þátt í þeim. Því vonum við að þetta bréf sé til komið vegna einlægs vilja ykkar til sameiningar.

Áður en lengra er haldið verðum við þó að geta þess að bréfið og efni þess kom okkur mjög á óvart, í ljósi fyrri afstöðu EIKm-l. Undanfarið hefur afstaða EIK m-l til KFÍ/ML verið mjög fjandsamleg og einna helst að sjá að samtökin hafi ætlað sér að brjóta flokkinn niður. Hafa skrif Verkalýðsblaðsins um flokkinn einkennst af sleggjudómum og jafnvel rógi.

Því miður er ekki annað að sjá á bréfinu en að EIkm-l hafi lítið breytt afstöðu sinni til flokksins, sbr. þessar tilvitnanir: "Eik m-l hafa ávallt haft þá réttu afstöðu til KSMI (1972-1976) og "KFÍ/ML" (1976- ) að hvorug þessarra samtaka hafi verið marx- lenínísk og kommúnísk." Ennfr. ""KFÍ/ML er hentistefnu- og endurskoðunnarsinnuð samtök sem sveiflast milli "vinstri" og hægri afstöðu. "

Ef þessi afstaða er ríkjandi ófrávíkjanleg afstaða EIKm-l til KFÍ/ML, þá fáum við vart séð að tal um sameiningu sé raunhæft. Slík afstaða er harla hæpinn grundvöllur að byggja á. Eða þykir ykkur EIKm-l ekki taka niður fyrir sig að sameinast slíkum flokki Við teljum að sameining geti aðeins orðið á jafnréttisgrundvelli, og þar sem við lítum á EIKm-l sem marx-lenínísk samtök á borð við KFÍ/ML, þá stendur varla á okkur varðandi þetta atriði.

En þrátt fyrir neikvæða afstöðu EIKm-l til KFÍ/ML undanfarið, þá ber þetta bréf þó vott um að horfið hafi verið frá þeirri stefnu að hafa hvorki samstarf eða samráð við flokkinn. Ef þessi túlkun okkar reynist rétt, þá er það stórt spor í rétta átt.

Í bréfi ykkar farið þið fram á svör og athugasemdir við bréfið.

Við viljum í fyrsta lagi benda á að umfjöllun ykkar um fyrri tilraunir til sameiningar er nokkuð einhliða. (sjá B-lið) Þar eru EIKm-l eignaðar allar tilraunir til sameiningar. Þetta er ekki rétt og við teljum að ef aðilar hafa ekki nægan pólitískan þroska til að láta hvorn annan njóta sannmælis, þá eigi sameining íslenskar kommúnista enn langt í land. Um þetta atriði verðum við að fjalla sýðar.

Í C-lið bréfsins kemur eftirarandi fram: ""KFÍ/ML uppfyllir á engann hátt skilyrði kommúnisks forystuflokks. EIKm-l hefur uppfyllt þau öll nema skref það sem felst í því að vera á fullnægjandi hátt skipulagsbundin brjóstfylking verkalýðsstéttarinnar- þ.e. hluti hennar með ákveðin fjölda verkamanna innan samtakanna! Okkur þykir þessi afstaða nokkuð hrokafull og mat ykkar á því hvað enn vanti, nokkuð grunnfærnislegt. En um þessi atriði ættu allir lesendur bréfsins að geta dæmt.

Um D-lið er það að segja að hann er eðlileg lýsing á því sem við tekur ef samtökunum tekst að sigra ljónin á veginum til sameiningar. En meðan þau eru jafnmörg og raun ber vitni, þá virðast allar tímasetningar vera óraunhæfar.

E-liður fjallar um skilyrði sameiningar. Þar telur framkvæmdanefnd miðstjórnar EIKm-l upp nokkur atriði sem KFÍ/ML á að framkvæma áður en EIK m-l "séu til viðtals um sameiningu".

Í þessu sambandi viljum við taka fram að KFÍ/ML er alltaf til viðtals við EIKm-l um sameiningu. Hins vegar er grundvallarskilyrði þess að slíkar viðræður verði árangursríkar, það að hvor aðilinn um sig gangi til þeirra með hagsmuni alþýðunnar efst í huga. Það er íslenskri alþýðu tvímælalaust til hagsbóta að íslenskir kommúnistar sameini krafta sína, í stað þess að sóa þeim hver á annan. Því verða íslenskir marx-lenínistar að leggja öll smávægileg deilumál á hilluna og taka

# Um sundrungu Marx-Lenínista

Dufþakur

Sundrungin meðal marx-lenínista virðist vera alþjóðlegt fyrirbrigði. Þetta vandamál er ekki aðeins til staðar hér á Íslandi heldur og um alla Evrópu, Ameríku og sjálfsagt víðar. Á Ítalíu t.d. skipta þau samtök og þeir flokkar tugum, er kenna sig við marx-lenínismann. Válegustu tíðindin í þessum efnum eru þær erjur, sem ríkja hjá Kínverjum og Albönum. Fram til þessa hafa samskipti Kína og Albaníu staðið sem skýrt tákn um samvinnu og gagnkvæma aðstoð sósíalískra ríkja. Kínverjar hafa nú ákveðið að hætta við að styðja Albaníu á sviði efnahagsuppbyggingar og hernaðartækni vegna harðrar gagnrýni þeirra síðarnefndu á m.a. kenningar Maós Tsetúngs um heimana þrjá. Ágreiningurinn snertir þó ekki stefnuna í uppbyggingu sósíalismans, heldur ólíka afstöðu til utanríkismála.

Það ber einnig að harma þær erjur, sem að undanförnu hafa verið milli Kambódíu og Víetnam, en þær eru alvarlegri að því leyti, að milli þessara ríkja hefur komið til beinna hernaðarátaka.

Innbyrðis deilur þessara ríkja eru ekki síst svartur blettur á þjóðfrelsisbaráttu þriðja heims ríkjanna fyrir þá sök, að fyrir nokkrum árum sneru þessi ríki bökum saman í baráttunni gegn útþenslustefnu Bandaríkjanna í Suð-Austur Asíu og tókst að hrinda henni af höndum sér. Ljóst má þó vera, að sósíalheimsvaldasinnarnir í Kreml hafa kynt undir ófriðarbálið, því þeir hafa nú mjög sterk pólitísk ítök í Víetnam. Kambódía nýtur aftur á móti mikils stuðnings frá kínverska alþýðulýðveldinu, en hafa aldrei fengið né kært sig um aðstoð frá Sovétríkjunum, enda studdu þeir síðarnefndu leppa bandarísku heimsvaldastefnunnar í Kambódíu á sínum tíma.

Svo aftur sér vikið að deilu Kína og Albaníu; hvaða afstöðu eiga nú marx-lenínistar á Íslandi að taka í þessu máli?

Fyrsta skrefið er náttúrlega að kynna sér alla málavexti, "stúdera" þennan fræðilega ágreining. Einhliða afstaða með öðru hvoru ríkinu væri skaðleg, enda efast vart nokkur heiðarlegur kommúnisti um, að uppbygging sósíalismans í báðum þessum löndum er vel á veg komin.

En vitaskuld leysum við ekki málin fyrir alþýðu Kína eða Albaníu - hún leysir að sjálfsögðu sín vandamál sjálf. Númer eitt er að við leysum okkar eigin vandamál. Marx-lenínistar á Íslandi eru sundraðir; þeir skipa sér í tvenns konar samtök. Það mál verður að leysa á farsælan hátt og með það að markmiði að sameinast í einn raunverulegan kommúnistaflokk.

Einingarsamtök kommúnista hafa nú sent Kommúnistaflokki Íslands enn eitt sameiningarbréfið og sem þeir segja að sé úrslitatilraun af þeirra hálfu til að sameina þessa tvo hópa. Sá ágreiningur, sem ríkir milli þessara samtaka má ekki verða til þess að torvelda eða gera sameiningu ómögulega. Slíkt væri ekki aðeins barnaskapur heldur beinlínis stórskaðlegt fyrir íslenska verkalýðsstétt og verkalýðsbaráttuna á Íslandi.

Á meðan sundrungin er fyrir hendi getur hvorugur þessara hópa í raun talist pólitískt forystuafl verkalýðsins - til þess eru þeir, svona sundraðir, alltof veikburða. En ef þessi samtök hins vegar sameinuðust væri kominn mjög góður grundvöllur fyrir raunverulegt pólitískt forystuafl íslenskrar alþýðu - og það er í raun og veru eina leiðin til að hægt sé að mynda slíkt forystuafl.

framhald af baksíðu

# Stjórnvöld á Bahamaeyjum níðast á þeim snauðu

Bahamaeyjum fullur af Haitibúum. Þegar komið var út á rúmsjó hafa Haitibúarnir verið neyddir til að stökkva útbyrðis allir sem einn, líka börn. Ekki er vitað hversu margir þeir voru í allt en 23 lík hafa fundist, drukknuð og enginn komst af.

PLP.

Stjórnvöld á Bahamaeyjum, Progressive Liberal Party (PLP) segja ástæðuna fyrir brottrekstrinum vera þá að verið sé að leysa atvinnuleysisvandamálið, að Haitibúar taki vinnu og fríðindi frá bahömsku þjóðinni. En PLP hefur farið úr öskunni í eldinn. Þessi flokkur, sem í raun er ekkert annað en leppur erlendra auðhringa, hefur valið hina hefðbundnu leið viðlíka flokka í öðrum auðvaldslöndum (Sjálfstæðisflokkurinn á Íslandi). PLP hugðist velta byrðum eigin kreppu yfir á þá sem minnst máttu sín á Bahamaeyjum. En nú er svo komið að enginn vill vinna þau störf sem Haitibúar unnu áður. Svo PLP hefði betur heima setið en af stað farið.

Auðhringirnir.

Erlendir auðhringir hafa frjálsan fjárfestingarrétt á Bahamaeyjum. Eyjarnar eiga að heita sjálfstæðar og þær tilheyra stjórnmálalega breska samveldinu. Allar stóreignir eiga auðhringir s.s. verksmiðjur, banka, hótel, spilavíti, flug og skipafélög. Innlendur rekstur slíkra fyrirtækja berst í bökkum fyrir lífi sínu, 2 smærri bankar, lítil gistiheimili og lítið innanlands flugfélag, Bahamaair. Stéttabaráttan hefur skýrt frá því áður að íslenski fjölþjóðauðhringurinn Flugleiðir h/f, á og rekur flugfélag á Bahamaeyjum undir nafninu International Air Bahama. Bahamaeyjar eru paradís auðhringanna, vinnuaflið er ódýrt og verðlagið hátt. Í byrjun ágústmánaðar 1978 kom milljónasti ferðamaðurinn til Bahamaeyja á árinu. Er það meiri ferðamannastraumur en nokkru sinni fyrr. Fjöldi manns hefur afkomu sína af ferðamönnum t.d. með því að selja þeim léttan handiðnað, tágavefnað og ávexti. Auðhringirnir mala gull af ferðamannastraumnum eins og gefur að skilja. Þeir leggja sig því mjög fram um að halda því aðlaðandi fyrir auga ferðamannsins sem honum er ætlað að sjá og að ala eyjaskeggja upp í þeirri trú að "sjálfstæði" þeirra byggist á því að ferðamannastraumurinn haldist að eilífu. Af þessu leiðir að vanrækt hefur verið svo um munar að yrkja landið og verða eyjarnar að flytja inn mikið af nauðsynjum, sem án mikillar fyrirhafnar væri hægt að rækta og framleiða innanlands. Má af því sjá hversu óöruggt "sjálfstæði" ferðamannastraumurinn veitir. Ferðafólki er heldur ekki ætlað að sjá húskofana sem alþýða Bahamaeyja býr í, né að það fái samanburð við villurnar í úthverfunum sem auðkýfingarnir búa í. Á eyjunum blasa mótsagnirnar við nær hvert sem litið er. Þar er fyrst og fremst um að ræða veldi og auð hinna fáu ríku annars vegar og umkomuleysi og fátækt hinna snauðu hins vegar.

Að neðan eru birtar myndir af einu dagblöðunum sem gefin eru út á Bahama-eyjum. Þau fylgja bæði jafn borgaralegri stefnu.






Til Nassau kemur vikulega fjöldi farþegaskipa sem sigla annars um Karíbahafið. Þau eru öll í eigu fjölþjóðaauðhringa, ekkert í eigu Bahama-búa. Frá skipunum fara farþegarnir svo keyrðir á spilavítin og hótelin, en þau eru "auðvitað" líka í eigu erlendra auðhringa.

AF ERLENDUM VETTVANGI

## UM UTANRÍKISVERSLUN KÍNA. (Hsinhua news)

"Með eflingu efnahagslífsins og auknum alþjóðlegum samböndum mun utanríkisverslun Kína aukast enn frekar," sagði Lí Tsíang ráðherra utanríkisverslunar í nýlegu viðtali við tímaritið Utanríkisverslun Kína. Viðtalið í heild birtist í ársfjórðungsritinu nr. 3, 1978.

Lí Tsíang benti á, að inn- og útflutningsverslun hefði farið fram úr ríkisáætluninni fyrir 1977 og verið að magni til 12 prósent meiri en 1976. Inn- og útflutningsverslun á fyrri helmingi þessa árs hefur einnig gengið mjög vel.

Á hinum 28 árum frá frelsun landsins hefur Kína tekið upp verslunarsambönd við meira en 150 lönd og svæði, og eru 120 þeirra í þriðja heiminum.

Er Lí Tsíang vék að stefnu og starfsháttum í inn- og útflutningsverslun Kína, sagði hann "Margir erlendir vinir sögðu, að þeim þætti ánægjulegt að sjá, að inn- og útflutningsfyrirtæki í Kína, hefði orðið sveigjanlegri í viðskiptum við önnur lönd. Sannleikurinn er sá, að kínversk inn- og útflutningsfyrirtæki hafa tekið upp aftur eða tileinkað sér alþjóðlega starfshætti. Til dæmis fallast þau á að samþykkja pantanir á vörum, sem framleiddar séu samkvæmt hönnun kaupandans og með hans vörumerki, samþykkja pantanir á vörum, sem framleiddar séu úr eigin hráefni kaupandans; samþykkja pantanir á vörum, þar sem einstakir hlutar, varahlutir eð eða heilar tækjasamstæður eru framleidd með tilliti til sérstakrar gerðar á vélum kaupandans sjálfs; taka upp mismunandi greiðsluform allt eftir ástæðum í hvert sinn, selja vörur á kínverkum vörusýningum erlendis, hafa umboðssölur í öðrum löndum, aðlaga verð á útflutningsvörum okkar að ríkjandi verðlagi á alþjóðlegum mörkuðum. Ég held, að kínversk inn- og útflutningsfyrirtæki muni með ánægju taka til íhugunar tillögur kaupenda okkar varðandi aðra sveigjanlega starfshætti í verslun."

### Sjálfstæði og það að treysta á sjálfan sig

Um stefnu og starfshætti Kína í innflutningsverslun sagði Lí Tsíang "Í samræmi við þarfir sósíalískrar uppbyggingar okkar höfum við nokkur undanfarin ár flutt inn samkvæmt áætlun og sérstöku vali nokkrar heilar verksmiðjur og tækni á sviði áburðarframleiðslu, gerfiefna, stálplötuframleiðslu og orkuvinnslu. Þetta hefur stuðlað að því að hraða þróuninni í kínverskum iðnaði og landbúnaði og styrkja aðstöðuna til að treysta á okkur sjálfa. Við munum halda þessu áfram framvegis."

Að lokum sagði ráðherrann: "Stefna okkar í uppbyggingu landsins er sjálfstæði og það að treysta á okkur sjálfa. Svo er og um sósíalíska sjóðsöfnun okkar. Því aðeins að við höfum efni á að kaupa, getum við aukið innflutning okkar. Það er að segja, aðeins ef við aukum jafnframt útflutning okkar, getum við flutt inn meiri vörur. Ef við flytjum inn heilar verksmiðjur og tækni, hvernig sem greiðslu er háttað: Staðgreiðsla, afborgun, alllangur greiðslufrestur, greiðsla með eigin vörum eða önnur ríkjandi form í alþjóðlegum viðskiptum - þá álítum við, að öll þessi form eigi að byggjast á getu okkar til að staðgreiða innan tiltekins tíma."



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
29. og 30. tbl. 7. árg. 15.8.1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




# Stjórnvöld á Bahamaeyjum níðast á þeim snauðu

Á undanförnum árum og áratugum hafa tugþúsundir Haitibúa flúið heimkynni sín og sest að í nágrannalöndunum s.s. í S-Ameríku, Flóridaskaga Bandaríkjanna og á eyjum Karabíuhafsins t.d. á Bahama. Fólkið flýr hungursneyð, atvinnuleysi, ofríki og óöryggi. Og það flýr í þeirri von og trú að þeirra bíði nýtt og betra líf, nóg að borða, nóg vinna, húsnæði, skólar og réttlæti.

En staðreyndirnar eru oftast átakanlegri en dagdraumar manna, vonir og trú. Stjórnvöld á Bahamaeyjum hafa hingað til tekið við flóttafólkinu veitt því landvistarleyfi, atvinnuleyfi ( sem kostar 250$ á ári ) og réttindi til skólagöngu. Þessu hefur þó alltaf fylgt að litið er á Haiti flóttafólkið sem annars flokks manneskjur. Það hefur unnið mestu skítverkin og verst launuðu en kaup verkafólks á Bahamaeyjum er frá 20-50$ fyrir 40 stunda vinnuviku eða frá 5000-12500 ísl. kr. Nemendur úr röðum Haitibúanna hafa orðið fyrir aðkasti í skólunum, jafnvel af hálfu kennaranna. Flóttafólkið hefur búið við réttinda og öryggisleysi t.d. er það fangelsað fyrir minnsta lítilræði og hlýtur vægast sagt illa meðferð í fangageymslunum.

## Haitibúar reknir úr landi.

Nýjasta árásin sem Haitibúar urðu fyrir hér á Bahamaeyjum er þó sú alvarlegasta. Haitibúar hafa verið sviptir landvistarleyfum sínum á Bahamaeyjum. Einu gildir um hversu lengi hver og einn hefur búið hér ( margir hafa verið í áratugi ), hvort viðkomandi hefur keypt sér atvinnuleyfi eða ekki, hvort hann er í vinnu eða ekki, hvort hann er í skóla eða ekki. Lög núverandi stjórnvalda á Bahama kveða á um að Haitibúarnir eigi tafarlaust að yfirgefa eyjarnar. Þeir séu hver og einn " ólöglegur ", þrátt fyrir pappíra sína, stimpla og réttindi sem þeir hafa keypt sér. Þessi brottrekstur hefur kostað það að nú nýverið hafa 5000 Haitibúar, flóttamenn frá Bahamaeyjum, reynt landgöngu á Flórídaskaganum eftir bæði ólöglegum og löglegum leiðum í bandarískum skilningi. Hinir hröktu verða að ferðast á milli strandanna á eldgömlum fúafleytum og ryðkláfum. Sumir þessara fljótandi koppa hafa sokkið og tugir manna og barna látið lífið. Braskarar hafa notfært sér neyð flóttafólksins og boðist til að ferja það fyrir stórpening. Þann 18 júlí s.l. sigldi einn slíkur braskarabátur frá

framhald á síðu 7



Bahamískt alþýðufólk hefur selt ferðafólki ávexti úr þessum söluskúrum í 77 ár. Skúrarnir standa við höfnina í Nassau, höfuðborg Bahama-eyja. Nú hafa stjórnvöld rekið bahamíska sölufólkið fyrirvaralaust burt frá þessum stað og til annars, þar sem ferðamenn koma sjaldan. Síðasti söludagurinn þarna var 31. júlí sl.

# Kína tilneytt að hætta aðstoð við Albaníu

Peking, 13. júlí ( Hsinhua )

Kínverska utanríkisráðuneytið tilkynnti sendiráði Albaníu hér í orðsendingu þann 7. júlí, að kínverska stjórnin væri tilneydd að stöðva efnahagslega og hernaðarlega aðstoð sína og aðstoðargreiðslur við Albaníu og kalla heim efnahags- og hernaðarsérfræðinga, sem þar starfa nú. Í orðsendingunni er lögð áhersla á, að "albanskir forystumenn hafa ákveðið að fylgja hinni andkínversku stefnu, horfið af ásettu ráði frá samningum undirrituðum af báðum aðilum um kínverska aðstoð við Albaníu, útbreitt og búið til ásakanir á kínverska sérfræðinga og spillt efnahagslegu og hernaðarlegu samstarfi Kína og Albaníu á fyrir fram ákveðinn og skipulagðan hátt og gert þannig ókleift að halda áfram kínverskri aðstoð jafnframt því, að hinn albanski aðili hefur lokað leiðum til lausnar á vandamálunum með viðræðum." Hinn albanski aðili segir í orðsendingunni, hafði uppi algerlega tilhæfulausar ásakanir á kínverska sérfræðinga, þar sem staðhæft var, að þeir "stefndu að því af ásettu ráði að spilla efnahag Albaníu" og að Kína hafi "sett hindranir" fyrir aðstoð sína við Albaníu "þvert ofan í " samninga, "þannig valdið alvarlegu tjóni " á efnahag Albaníu og " spillt " landvörnum hennar. Þann 7. júní 1978 sendi kínverska utanríkisráðuneytið albönsku stjórninni svarorðsendingu, þar sem látin er í ljós von um skoðanaskipti með orðsendingum og lausn á erfiðleikum í samstarfinu milli landanna, þannig að samstarfið geti haldið áfram. En ambassador Albaníu í Kína neitaði að taka við orðsendingunni eða leysa málin með viðræðum. Við þessar aðstæður á kínverska stjórnin ekki annars kost en að stöðva aðstoð sína.

Í orðsendingunni er minnt á, að samkvæmt beiðni albönsku stjórnarinnar hafi kínverska stjórnin veitt Albaníu efnahags- og hernaðaraðstoð frá 1954. Framkvæmd hinna kínversk-albönsku samninga krefst af kínversku stjórninni útlagðra fjármuna að upphæð meira en 10.000 milljón Júan (renminbi) sem að langmestu leyti hefur verið innt af hendi. Nærri því 6.000 kínverskir sérfræðingar voru sendir til Albaníu á þessu tímabili vegna framkvæmda í sambandi við aðstoðina. Kína hjálpaði Albaníu líka til að þjálfa mikinn fjölda tæknimanna á sviði efnahags og hernaðar.

Í orðsendingunni er bent á, að að Kína hefur aðstoðað Albaníu, þó að það hafi sjálft átt við margvíslega erfiðleika að etja. Kína afgreiddi til Albaníu 1,8 milljón tonn af manneldiskorni, þegar matvælabirgðir þess voru ónógar. Kína sendi Albaníu meira en milljón tonn af stálvörum, þegar það hafði ekki nóg stál til eigin þarfa. Kína lét Albaníu fá meira en 10.000 dráttarvélar, þegar vélvæðing kínversks landbúnaðar er ennþá á mjög lágu stigi, þannig að aðallega er byggt á mannafli og dráttardýrum. Þó að Kína hafi ófullnægjandi getu til orkuframleiðslu, hjálpaði það Albaníu til að fullgera að öllu leyti eða mestu sex orkuver mismunandi stór og gerði Albaníu þannig fært að verða meira en sjálfbjarga um rafmagnsframleiðslu. Kína lét albanska herinn fá nýja, kínversk-smíðaða skriðdreka og orustuflugvélar jafnvel áður en þess eigin her fékk þennan búnað. Kína keypti erlendis frá og endurseldi Albaníu tækjabúnað, sem það gat ekki framleitt á þeim tíma, í verksmiðju til framleiðslu á köfnunarefnisáburði, fyrir gjaldeyri, sem það þurfti mjög á að halda sjálft. Kína framkvæmdi fyrir Albaníu sérstakar tilraunir og tilraunaframleiðslu um meira en tólf ára skeið og eyddi til þess meira en hundrað milljón júan renminbi til þess að koma upp fjölþættu málmbræðsluveri til vinnslu á nikkel, kóbalti, járni og krómi úr albönskum jarðefnum, þegar Kína hafði enga hagnýta reynslu á þessu sviði og þegar tækni og tækjabúnað, sem til þurfti, var ekki að fá á alþjóðlegum markaði.

framhald á síðu 2



Kínverskur iðnaður hefur verið ákaflega vanþróaður til þessa, en hefur aukist síðustu árin. Samt hafa Kínverjar veitt öðrum sósíalískum ríkjum og þróunarlöndum efnahags- og tækniaðstoð.

# Til áskrifenda Stéttabaráttunnar

Stéttabaráttan hefur nú nýlega hafið rukkunarherferð og er ætlunin að reyna að ná að rukka inn allar útistandandi skuldir blaðsins fram til næstu áramóta, fyrir mánaðarmótin september-október. Til þess að þetta megi takast er nauðsynlegt að áskrifendur blaðsins bregðist skjótt og snarlega við rukkuninni og hafi samband við blaðið ef þeir eru t.d. ekki heima við á þessu tímabili. Það skal og enn brýnt fyrir fólki að láta ekki undir hælinn leggjast að tilkynna strax til blaðsins ef það flytur búferlum, eða fer til náms erlendis osvfr. Rukkunin fer fram með tvennum hætti, annars vegar er verið að sækja fólk heim með rukkunarseðlum og er það þegar komið vel af stað bæði í Reykjavík og Kópavogi. Hins vegar hafa nú þegar verið sendir Gíró-seðlar út á land og ættu þeir að berast til viðtakanda eigi síðar en í fyrri hluta vikunnar 13-20. ágúst. Ef fólk hefur einhverjar athugasemdir fram að færa við rukkunina eða blaðið sjálft, skorar ritnefnd Stéttabaráttunnar á það að hafa samband við blaðið og koma þannig athugasemdum sínum á framfæri. Þetta má gera bæði bréfleiðis og símleiðis og eru heimilisfang og sími gefin upp hér á eftir. Stéttabaráttan skorar á alla þá áskrifendur er fá senda gíró-seðla að stinga þeim ekki niður í skúffu til geymslu í einhvern tíma heldur fara með þá strax í næsta banka eða pósthús og greiða þá þar. Að greiða gíró-seðilinn strax sparar bæði ykkur og okkur tíma, fyrirhöfn og óþægindi. Utanáskrift Stéttabaráttunnar er:

Stéttabaráttan
P.O. box 1357
Reykjavík
Símar:
27810 milli klukkan 4 og 6.30 alla virka daga.
22366 á kvöldin og um helgar.
75898 eftir kl. 6 virka daga og um helgar.